um lijka eins þad sker: Slijkt kann Sorg mijna sefa.

Og hverium Syndir eiñeñ bier, apturhalldid, þær verda, apturhalldnar, þeim Herrann tier. Hver kañ slijkt Valld ad skierda? DRotteñ vor JEsus dyr þad gaf, Drottnar Heimsins þad taka ei af, hversu sem Volld sijn herda.

Eg kiem fram sekur opt og tijdt, ei fiñ mier neitt til Boota, i Hiarta og Saalu halldeñ lijtt, Herrans Pioonum til Foota, þeirra Likla-Valld leyser mig, Lausnariñ JEsu, fyrir þig, sæ eg so Naadar niota.

Þegar mig mæder þungur Kross, Þegar mig Sorger pijna, JEsu blessadur Benia-Foss, blæder aa Saalu mijna, fram af Muñe Hyrdara hañs: A Hiartañs Sorg þa verdur Stanns, og oll giörir Angist dvijna.

Syndeñ þa bindur Saalu mijn, og særa Glæpa Hlecker, flȳ eg miñ Gud til Pioona þijn, þeirra Magt eingeñ hnecker, bliwgur frañkryp eg fyrir þa, Frelsis Bodan þeir giora mier tiaa: Þeirra Lausn efa eg ecke.

Laungietnir Synir ei faa Arf, eptir Forelldra sijna, Skilgetnum brixla þvi ei þarf, ad þeirra Erfd skuli dvijna: Eptir Postula erud þier, til Embættisins Skilgietner, Pioonar Guds: Þad maa sijna.

Frelsara sijns þa feta Spor, fara þeir villt alldreigi, i hanns Kienning med Prek og Þor, þa sem aa raungum Vegi, gaanga, i Lærdoom leidrietta, med

med Lijfs-Braudi þa forsorga, Sannlega eg þad segie.

Odyrd þoi alldrei, aumur Mann, ædsta Guds Sendiboda; hvor þa forsmaair, forsmaar hann, taatt kann slijkann ad stoda: Herrann Pioona sijn hefnir ort, sem hönum sialfum þad væri giördt; Varastu soddann Voda!

Maadar og Lijfsins Kienning klaar, Christnenni bijdst Daglega, af Pioonum Guds þad stodugt starf, stillir hun Andar Trega, allra þeirra sem þiaast i Pijn. Pijns Ords Kraptur er Huggun myn, O JEsu! Æfinnlega.

Bidiandi Foolksins Bænar-Rausst, bera þeir til Himnanna, þad sem var bundid, laata laust, sem Lausnarans Ord hier saña, þeir græda solliñ Synda Saar, so ad Glæpanna Vondslegt Faar, ei deydi Andir Manna.

Þier Guds Ords Pioon, er þad og sagt, þitt Lykla-Valld ad brwka, ecki med neinni ofur Magt, þvi attu Reikning ad lwka. Ydrandi Saalir afleys þu, enn þverbrotnum med Hoogværd snw, slai þriootska, sær ei siwka.

O JEsu! Sæti Astvin minn, O JEsu! Lausnarinn blijdi, wr Synda Fiotrum Fanga þinn, fylltann af Sorg og Striidi, leys þu, minn Gud, og liettu Pijn, Lausn mijns Kiennimanns er sem þijn, Lof sie þier Frelsariun frijdi.

## 30. Psalmur.

## Um̃ Fall Thomæ Poſtulá.

Ton, JEſus Chriſtur a Kroſsi var, etc.

PEgar HErrañ vor Himnum fraa ; Heilagt Lykla-Valld gierdi faa, liwfuſtu Læriſveinum, Thomas eiñ var þeim ecki hiaa, Ond hañs þvi fyllttiſt Meinum.

Þa fyrſt til þeirra heim kom hañ, honum þeir greindu riettañ Sañ, gladir i Saal og Siñi ; Søgdu : Vier høfum ſied Herrañ, ſem var hier med oſs iñt.

Til þeirra ſagdi Thomas þa, trwa all-dreieg þeſsu maa, nema eg i hanns Høndum, fyrſt meigi Nagla-Føriñ ſiaa, er feck hañ a Ormum þondum.

Og ad ſiaaandi eg þar iñ, Efa-frij laati Fijngur minn, og Hendur i hañs Sijdu, leggia naai i ſama Sinn, ſijſt trwi eg Bodi þijdu.

Siaa og athuga, Saal mijn kiær, Sancte Thomas var burt og fiær, þa JEſus ſig Sveinum ſijndi, Trwar Miſsirſþvi meſtann fær, er mæddi hanns Ged og pijndi.

Fraa Guds Barna Søfnud gef þig ſijſt, af Guds Ordi Trwinn kveikiſt viijſt, Guds Ord heñi vidhelldur, i Kyrkiunni fær lioos þad lijſt, Lijd þeim i Blindni er felldur.

J Kyrkiunni Guds Ord kiendt og rædt, Kyrk-

iu

iu Safnadar Hiartad mædt, hreßir, huggar og nærer, Andar-Særinn þad oll fær grædt, og nya Gledi fære.

Thomas var eitt Sinn ecki vid, þa Endurlausnarinn bodar Frid, og byrtist sijnum Sveinum, af þvi mætti hann utann Bid, Andar-Skada og Meinum.

Hvad meinar þu ad hendi þa, hina sem ydugléga sinar, Kyrkiur og Kienning gooda? Po þeir hrellist, ei Huggun faa, af hærstum Frelsara Þioda.

J Sofnudinum Son Guds er, syndugi Madur, viist hiaa þier, ef hanns Ordum villt sinna: Huggun, Blessan og Hialp þar tier, hann maa þar alltijd finna.

Andlegur Himen heita maa, HErrans Sofnudur Jordu aa, Sool Rettlætesins sæta, lætur þar Geysla sijna siaa, sem Hiortun sturlud kiæta.

Ef þu villt, Madur, ecki þvi, þeim ytstu Myrkrum kveliast i, laattu þier JEsum lijsa, med Ordi sijnu, um Eilijfd frij, audnast þier hann þa priisa.

Vantraust þo stundum veiki mig, veittu JEsu ad fyrir þig, Lioos Trwar lifni minnar, alltijd gief þu hun æfi sig, i Ydkun Gudrækninnar.

Fadir Lioosanna laattu mier, lijsa alltijd i Verolld hier, Lioos þinna Lijfsins Orda. Eg befala mig einum þier, illri Vantrw mier forda.

## 31. Psalmur.

 Um

## Um̃ Vidriettlng St. Thomæ.

Ton, Lifandi Gud þu lijt þar a, etc.

AT Ta Dogum, sem Ord Guds tiaa, eptir þad HErran̄ blijdi, Lærisvein̄ana liet sig sia, lwna af Harma-Strijdi: Kom JEsus en̄ til þeirra þar, þegar Thomas og med þeim var, so han̄ sæi og trydi.

JEsus sa hædsti Hyrdir er, hann leitar tijndra Sauda, a Herdum sijn þa heim færer, wr Hæska allskins Nauda. Einginn fær H. ord han̄s unnid Mein, ei ferst hanns Saudar-Skiepna nein, hann einn hiaalpar fra Dauda.

Til Postulan̄a HErran̄ hier, i Hiarta og Orduin blijdur, kom, þa Hurdin læst aptur er; Endurlausnarin̄ þijdur, Oskar þeim Fridar nu a nij, af Nadar-Avarpi gladdist þvi, Lærisveinan̄a Lijdur.

JEsus til Thomam talar þa, ad trwa siertu hradur, med Fingri taktu Orum a, i Honduin̄ mijnum gladur, wtriettu Hend og ein̄in̄ þijn, innlegg hana i Sijdu mijn, vert ecki Vantrwadur.

HErran̄ itrekar Ordinn hier, øll þau sem Thomas hafdi, læt id heyra af sialfum sier, Saal han̄s þa Efinn vafdi, um̃ Upprisu DRottins Daudum fra, er dyggver Postular giordu tia, enn hann ad

trwa

erwa tafdi.

A mijnar Syndir minntu mig, minn JEsu, hier i Lijfi, so minnist Hefnd þijn hrædilig, i hordu Doomsins Kijfi, ecki þeirra: Gleym Glæpum mijn, giori þa hylia Saarinn þijn, sem mier syndugum hlijfi.

Alskiæru DRottins Augunn sia, oll Verk og Þaanka Manna, hvert þeirra Ord hann heyrir a, Heims um giorvalla Ranna; Þegar þu syndgar, sier hann þad; syrg þvi, og graat þinn Misverknad, og gior Yfirboot sanna.

Thomas hier odlast Hugar-Hægd, og Hiartans Gledi næde, þa hann i Trwar fagri Frægd, Frelsarans Benia gæde, Vantrwar Glæpur hvarf burt hans, a Hormum ollum giordest Stans, fyrer Hrygd, Fognud þaadi

Eg sæ, O JEsu! eirnnenn sia, Or þinna Handa og Foota, Truar Hond mijn þeim tekur a, tel eg mier slijkt til Boota: Handa Saarenn sem þiaadu þig, i þijnar Hendur skrifa mig, þvi sæ eg Naadar niioota.

Þa mijnar Fætur þreytast hier, og þiaast a Krossins Vegi, set eg strax fyrir Sioonir mier, so ad eg styrkiast meigi, Foota Orinn og Undir þijn: Ollum lina þau Naudum mijn, O JEsu elskulegi!

Synder þa hrella Hiartad mitt, og Heliar Pijnu boda, Hiarta og Sijdu Saared þitt, sæte JEsu, eg skoda, lioomandi af þvi Elskan skijn, er bætti fyrer Glæpi mijn, og ollum varna Boda.

J þijna Sijdu Undenn mijn, O! minn JEsu, skal flya, seinast þa Holldsins Hiervist dvijn, hana veit eg þar frija, einginn henni þar ama kann, einginn Hæſki nie Logmaals Bann, einginn Angist ad lija.

Opt sie eg Synda Orinn mijn, ysast, svijda og blæda, enn eg veit, JEsu, Undir þijn, oll þau mijksla og græda, þvi skal eg leggia Saar vid Saar, Saaranna mina skadlegt Faar, sijst kann þa Hug minn hræda.

A forklaarudu Holldi hier, HErrans vors Milldinn skiæra, Saara-Orinn sijn blessud ber, Brioost mitt þau endurnæra, hann mun sinn Fodur Himnum æ, til Hiaalpar mier enn þau laata siaa, og med þeim Frid mier færa.

J Himna Sælu Or þijn sier, O! JEsu, minn Frelsari, Englanna þinna helgur Her, hier med Utvalldra Skari, sem Sigur-Teikn þijn um eilijf Ar, ollu fegri enn Soolinn klaar. Þu ijn alltijd Vegsemd vari!

## 32. Psalmur.

### Um Trwarjaatning Thomæ Postula.

Ton, JEsus Guds Son Eingietin, etc.

PEgar Lausnarans Lijda, Lijfs vera Thomas saa, Vantrwar vond Astrijda, veik strax i burtu þa, i Fognudi Hiartans hijrum, hroopar med Ordum skijrum, hverium nu herini eg fraa.

Til JEsum Thomas sagdi, Trw=goodur þetta Siñ, dreigiñ frá doþru Bragdi, DRottiñ miñ og Gud miñ. Ord þessi eg vil grunda, i þeim, nær gloggt þau stunda, Lærdoomi eg fagrann finn.

Hier sie eg Thomas hafa, HErrann vorn Gud og Mann, jaatad vera án Vafa, (Vist þad ei efast kann.) Hann er sá hærsti HErra, hañs Valld kann alldrei þverra, á Himni og Heims um Rañ.

Minn DRottinn, jeg þig jaata, JEsu Lausnarinn kiær: Ønd mijn skal ei aflaata, eptir sem kraptad fær, hier ad þioona og hlijda, þinn Kross bera og lijda, og hyllast þig HErra skiær

Þu ert med øllum Sanni, allir þess skylldu gaa, HErra, sem hverium Manni, hæfir Lotning ad tiaa. Þu virdst mig Þræl þiñ kalla, þessa Heims Vegsemd alla, Einkis þar akta eg hiaa.

Þu, allann þig, mier giefur, þier gief eg aptur mig, mijn Saal þig eiñ umvefur, eiñ skal hun gyrnast þig, einn siñ HErra þig halldi, Hlijdni þier einum gialldi, mijn Eiska milldelig.

Minn Gud eg þig medkienni, minn JEsu, hverja Tijd. Hormung þo Hiartad speñi, huggar mig Naad þijn hlijd: Þu ert Gud Giædsku goodur, Gud Trwr, Gud Þoliñmoodur, Gud sem þiñ leystir Lijd.

Þu ert Gud, þad eg jaata, þiñ Mattur alltijd staar, þier ber i allann Maata, Æra og Virding

klær, Dyrdkan, Bæn, Lotning Lyda, lofad sie Nafn þitt blijda, miñ Gud, uñ eilijf Ar.

Vid Thomam Son Guds sagdi: Sañlega trwdir þu, og þessi Ord tillagdi, af þvi mig sæstu nu, eñ eg þa SÆla segi, er siaa kuña mig eigi, hafa þo hreina Trw.

Med Holldsins Augum ecki, eg fæ JEsum ad siaa, hvad eingri Velferd hneckir, hann fyrst eg lijta maa, med Trwar Augum mijnum, i Mædu og hverskins Pijnum; soddann maa Sælu tiaa.

Eg mun þig eilijflega, O! sæti JEsu Christ, litid faa, laus vid Trega, i liwsri Himna-Vist, med Lijkamans Sioon lioomandi, i Lijssins Sælu Standi, sem alldrei umbreitist.

Mørg Teikn nam Guds Son giera, sem greinir Johañes, ecki uppteiknud vera: Enn, mijn Saal, giættu þess, ad hann liet allt þad rita, er Mañeskiann þarf ad vita, so hlioti aa Himnum Sess.

Og ad JEsus Ast-skiærri, eiñ sie med fullañ Sañ, Christur Guds Sonur kiæri, komiñ i Heimsins Rañ, ad þeir sem aa hañ trwa, aller, og til hañs snwa, hafi Lijf fyrir hañ.

Jeg trwi, JEsu goodi, jeg trwi aa Nafnid þitt, Saal mijn þvi sviptist Moodi, af Syndum øllum kvitt, eg skal þvi alldrei efa, einn muntu Lijf mier gefa, Lijfid þo linni mitt.

# 33. Psalmur.

## Uñ Opinberun Christi vid Siooiñ Tiberiadis.

Ton, Christs er koma fyrir Hondum, etc.

VId Tiberias Sioo=Sijdu, sig byrti JEsus hijr uppriſiñ eñ med Blijdu, lüir so Ritning skijr, Læriſveinar Sio ſamañ, sookt hoſdu Fiſki-Draatt, Petur var fyrir framañ, feingu eckert þa Naatt.

Ad Morgni i Fioruñi, Endurlauſnarīñ stood, af þvi þo klaart ei kuñi, kleñaſt hañs Aſtind riood. Morgun Skugginn þeimmeinar, ad mættu þeckia hann, þo liooſir Læriſveinar, liti þar standa Mann.

Eg er i Angiſt staddur, opt ſem a diwpum Sioo, af sölltum Taarum saddur, Syndinn mier slijkt tilbioo. Huggunar Afla eigi, uñ Noott þo leiti eg tijdt, mæddum a Moorgaangs Vegi, mier vill þad gaanga lijtt.

Og þo med allri Blijdu, Endurlauſnarinn kiær, vid Sorga minna Sioo-Sijdu, sie, og standi ei fiær, eg hann þo ei gloggt þecki, Angiſtar-Skugginn þvi, velldur, sem blindann bleckir, Bölinu þrwngu i.

Eg þa af Eymda Haſi, innkiemſt i Sælu Hoſn, er þar a eingiun Vaſi, enn þo hier væri Droſn, JEsus

JEsus i Ast umskiptir, eg sie þa gladur hañ, Siod-votum Bwning sviptir, sierhvern Riett-trwadañ.

Ad Morgni utann Nauda, Israel leiddi Gud, med Heill um Hafid Rauda, i heitinn Lands Fögnud: Ad Morgni a efsta Degi, wr Hafs Naud Veralldar, eg kiemst, hvad efa eigi, i Höfn Paradijsar.

Þar mun Frelsarinn frijdur, i Fiorunni standa nær, wr Brimgardi Daudans blijdur, burt taka Nædar skiær, þetta mitt Holld hrørnada, hier med Sæl or-þreitta: Þar fæ eg Huggun hrada, i Hoop Guds Utvalldra.

**Hafi þier, HErrañ sagdi, Hlarta Børn, Fædu ei? svørudu bræddt ad Bragdi, Brædur þar stadddir: Ney.** O! hvad opt Aumir klaga, ei hafi Morgun-Verd, og um allmarga Daga, Atvinnann gioriſt ſkierd.

So hefur Sann-Gudhrædda, sialfs Drottins Forsioon blijd, reyndt, og giort opt miog mædda, a megnri Hwngurs Tijd. Abram, Isaac goodi, og Jacob reyndu slijkt, David þeim mætti Moodi, mæ oss og henda lijkt.

Alldrei Ohplinnmoodur, yfir þvi klaga skalt, þo Gud þinn Giædsku goodur, giefi þier ei þad allt, hvad hellst til Holldsins Muna, hentast lijtst sialfsum þier, nu ætt þvi alltijd una, ad hañ best fyrir sier.

Hugsadu a hvorium Degi, hvad Naudsynlegast er, ad Sæl þijn sediast megi, i sætri Guds Næd hier; Otti hanns afla þessa, orkad med

riettu fær, hann kann betst Hiartad hreſsa, Hwnurs Tijd þo ſie nær.

Forſooma einninn ecki, ad ſtunda Kallan þijn, Hyrdulaus Leti hneckir, Herrañs Umſorg: So oviin, hiaa þier hanns Bleſsan blijda. Bænræckni ydka tijdt, ſo mun Guds Þelid þijda, þier hialpa, Barnid mitt.

O minn Gud! Eg ſkal lijda, allt þad ſem villtu hier, laattu mig Bolid bijda, ſem bleſsudum lijkar þier. A lifandi Manna Landi, Lijfſins Braud ſedur mig, i Lyſi þvi lifandi, lofa eg alltijd þig.

## 34. Pſalmur.

### Uñ ſiaalfſt Krapta=Verkid, er JEſus giordi vid Sioòinn Tiberias.

Ton, Dagur i Auſtri ollum, etc.

POſtular ſvuñr ſvara, ſem hermt er aadur fyr, ſijnum Ll wofa Lauſnara, i Lyndi hoogværir: Fiſk nockurn fengum eigi, fer Skipid koomt til Lands: Siaalfur JEſus þa ſegier, ſem hlioda Ordiñ hañs:

Kaſtid wt, Børn mijn blijdu, braadt nockud finnid þier, Neti vid ſiaalfs Skips Sijdu, ſem hægramegiñ er: Þeir giordu ſem hañ ſagdi, ſijſt gaatu dregid þa, Fiſka Mergd flioott ad Bragdi, er fengu Skipid aa.

Ord=

Ordſins Þienara alla, Andlega Fiſkara, klaarlega maa eg kalla, af Kieñing Ritninga: Greidt Net til goodra Veida, Gudſpialls Lærdoom er, hvorn þeir uḿ Heimiñ breida, þoottþætt ſie Fiſki-Ver.

Harma-Noott hafa tijdum, hier ORott:nns Veidi-Menn, hiaa vondum Veralldar Lijdum, þvi veitiſt ei Abatenn: Þeir vid Vinſtri Hond verda, viiſt aa þann effta Dag, naaſt ei, þvi Hiortuñ herda, med Hreckiafullt Sinnislag.

Þioonar Guds þo ei meiga, þreytaſt, nær veidiſt lijtt, aan Forſoomunar eiga, Ordſins Net leggia tijdt. Þaa þeir til Hægri Handar, hafa þvi vtkaſtad, og hvør einn Verk ſitt vandar, verdur nockud fiſkad.

Utvalldir veidaſt allir, allir riett-trwader, þaa i Himneſkar Hallir, wr Harma Sioo Gud færer, i hvorium hier aa Jordu, hanns Ordid verka ried, og þvi med Hiarta hordu, hoſdu ei mootſtaded.

Vid Hægri Hond Son Guds ſetur, ſijdarſta Degi aa, Feng þann, og mikils metur, miøg vel er fiſkad þa, Veidi-Menn verda gladir, velldt er gott Fiſka-Kyn, fallegir Fioru-Stadir, hvar fyrir er þeirra Vin.

Af Furdu Fiſki-Dræṫti, er fengu Poſtular, af þvi med eingum Hætti, aattu haṅs vænta þar, Læriſveiñ litwfur ſagdi, ſem Lauſnariñ elſka vañ, þa til Peturs, hver þagdi: þad er ſialfur HErrañ.

So

So brædt sem Petur heyrdi, ad HErr-
añ værí þar, Elskurijkur ei eyrdi, ytbyr-
dis sier kastar, Klædfaar, og kom ad Landi.
Krapta-Verk segiast mar, a Sioonum greidt
gaangandi, giordi ei sockva þaa.

Far-klæddur fer eg tijdum, a Fund þinn, JEsu
kiær, Helgunar Fatnad frijdum, slettur, og alsber
nær, enn þu mig aptur klædir, i Ast Riettlæti þijn,
saar þegar Sorginn mædir, so hylst oll Blygdan
mijn.

Postular adrer prwdir, Petri komu sild-
ar, med Skip af Mædi lwdir, mieg laangt
ei þetta var; Tvo Hundrud Alner eigi, eñ
nær þvi Ritning tier, og hermir hafi dreg-
id, Happ sitt og Net med sier.

Og er þeir a Land stigu, allir señ litu
þaa, med Gedi Gled-ligu, Glædur, og
Brauñ þar a, eiñinn Fisk yfirlagdann,
enn JEsus vid þaa tier: Sækid af Fisk
þeim, sagdi hañ: Sem nu strax fengud
þier.

Bod JEsu blessad rækir, brædt eptir
Villia hanns, Simon Petrus, og sækir,
sitt Net, og droo til Lands, stoorir Fisk-
ar þad fylltu, fañst Talañ ecki rijr, Her-
ra sijns Skipun hylltu, Hundrad Fim̃-
tiju og Prijr.

Þo Fiſkar ſem hier ſegier, ſo margir fylltu Net, enn ſamt rifnar þad eigi, undraſt þad ſijſt eg get, Almættis Hond þijn, HErra, hefur enn verkad ſlikt, þinn Maattur ei kann þverra, þitt Valld er Krapta-rijkt.

Til Læriſveinana ſagdi, Sonur Guds eñ og tier: Med klaaru Kiærleiks Bragdi, komid og ſnædid hier, Braud og Fiſk gaf þeim goodur. Gled þig, mijn Saala, hier: JEſu þinn blijdur Broodur, Bordhalld enn veitir þier.

Litlu fyrr Læriſveinar, Lauſnarann høfdu fædt, a ſteiktum Fiſk, Fæ dýr hreinar, þa feck hañ hiaa þeim ſnædt, Sigurvegarinn ſætur, Sadning þa borgar nu: Olaunad eckert lætur, Aſt hanns og Milldinn trw.

Komid, JEſus enn kallar, komid hijngad til mijn, Manneſkiur mæddar allar, Miolk kaupid og ſo Vijn; komid, fyrir alls ecki, ydur eg ſedia vil, þeir þyrſtu þar med drecki, þvi Svolun noog er til.

Trwudum øllum gefur, Andlegt Braud JEſus kiær, hvoria hann kallad hefur, Hreſsing þaa Saalinn fær, Lijkamann lijka ſedur, Lijknar Hondinn hanns blijd, Biorg Holldſins beſtu medur, Bleſſud a hverri Tijd.

Mig og Utvallda alla, a þann ſijdarſta Dag, minn JEſu muntu kalla, i meſtann Dijrdar-Hag, yr ſolltu Sorgar-Floodi, Sioo-vøtgnn mettar

þa, vid Bord þitt Guds Son goodi, i Gledi-Vist-Himmum aa.

Þa mun eg þurfa ecki, þar nockru spyria ad, Guds Son eg gladur þecki, vid Guds Bord i þeim Stad, mijns Guds Sioon mig þa sedur, mier er sio Huggun vijs, Utvolldum øllum medur, i sæll-ri Paradijs.

# 35. Psalmur.

## Um̃ Samtal Christi vid Petur.

Ton, Eiñ HErra eg beist ætti, etc.

POstular HErrans hlijrir, þa høfdu Fæ-du neytt, Skriftin̄ eñ framar skijrir skulum þess miñast greitt, til Peturs Son Guds segier: Simon elskar þu mig, meir eñ þessir? Hañ hneigir, hier til Svør audmiuklig.

Ad eg þig Elska giori, eflaust, HErra! veitst þu, um̃ adra faatt eg mig kiori, ad þessu Sinni nu, Prisvar Jaa þar til tiaa-di, þad JEsum elskadi, eñ loksins aangrast naudi, af Spurn so tijdt heyrdi.

Med fyrstu Spurn Frelsarinn blijdur, fyrrnefndum Postula, liufur i Lyndi bijdur, Lomb sijn skuli hañ ala, og fæda sijna Saudi, St. Petri skipar, a betsta Lijfsins Braudi, baud Jesus so þrisvar.

Afneita Prisvar aadur, aumlega Petur ried, sijnum HErra, samraadur, Satans Villd Hræddslu med, hrestann i Saal og Sinni, Son Guds spyr Prisvarnu, um Elsku haans, so inni, opinnbert sijna Trw.

Hier med so hann innsetur, i Heilagt Embætti, aptur, og ei þess getur, ad hann fyrr hrasadi: Þa eg Synd mijna syrgi, sijst verdur hennar minnst, Blood JEsu hana byrgir, Brot kvitt hiaa Gudi ei finnst.

Hvoriu villt Saal mijn svara, siertu nu spurd þarad, hvort þinn Hiartans Lausnara, hafir þu riett elskad? Þu munt ei þora ad jaata, þad og lijkslegast er, þviad i margann Maata, maa finna Brest hiaa þier.

O JEsu! Elskann blijda, af Hiarta vil eg þig, Elska, og allt þad lijda, er þu villt leggia aa mig, Elska af Hiarta hreinu, af hreinum Stodugleik, ecki med Ordi einu; enn þad fer tijdt aa Reik.

Eg veit allmargir kunna, ad elska JEsum heitt, þeim vil eg þess vel unna, þad er mier siaalfum leidt, ad eg alldrei sem bæri, alldrei sem skylldugt er, heita Ast honum færi; hann þad forlaati mier.

Hvad maa skylldara heita, enn hafa þann Astkiærann, Gott allt sem giorir veita, gefa vill og þad kann, og er saa ædsti Goodi. Elska þvi JEsum Christ, so munt þu sviptast Moodi, Saal mijn, i Himna Vist.

Oss fyrri elskad hefur, Endurlausnarinn dijr,

af

af Elsku oss umvefur, enn nu hanns Milldinn skijr, oss hann elskar til Enda, elskum þvi swsir hann, fraa Elsku hanns alldrei venda, attu, þu Christinn Mann.

Af Ast til aumra Manna, Elskuginn vor JEsus, fraa Hædum Himna Ranna, hijngad a Jordu fwo, kom og Holldinu klæddist, Kvalir, Forsmaan og Deyd, hier þa hann hiaa oss mæddist, af Hiartans Elsku leid.

Ef þu hañ ecki aptur, elskar miin Saal af Trw, eins so sem er þinn Kraptur, eflaust tilbyrgir þu, hanns Astar-Brunn eilijfa, Elsku hanns færdu sijst, af þvi hann gi:rir ysa, Eilkuleysid þitt viist.

Ef þu vel ad þvi hyggur, og villt þess riett giæta, einnnn þier a þvi liggur, ad elska þinn Naunga, hann er Limur lifandi, Lausnarans, Saala miin: Hvad opt i Harma Standi, hañ lijta Auguñ þijn?

Hvor saa sem elskar eigi, af Hiarta Naungañ, a riettum Elsku Vegi, ecki framgengur hann, einga Ast hefur helldur, hann til sijns Frelsara, fraa JEsu Kiærleik felldur, finnur Skadsemd brada.

Hollds Gyrndir alldrei attu, elska, þu Christinn Mañ, nie vonda Heimsins Hattu, sem hrigga þinn Lausnarann: Ef ad þu alla Vega, umflijr slikt, Saal miin kiær, Ast JEsu eilijflega, og hier i Naad þu fær.

Lomb og Sauda-Hiord sijna, Simoni JEsus baud, ad fæda: Eikann dvijna, Elskann hañs: Lijssins Braud, Hungrudum hvorium gefur,

Hyrdir sꝏ betsti er, Lomb sijn veik ad sier vefur, Vansæra Saudi ber.

Ei lætur af ad kalla, Ástinn hanns Milldi hꝏ, fyrr enn til Himna Hallá, hann fær innleidda þa, Raust hanns sem heyra og hlijda, Himnesk Fæda giefst þar. Þess giöri eg gladur bijda, Gud allrar Myskunar.

Hyrdarar allir heita, HErranns JEsu Þioonar, þeir eiga eins ad breita, og Petri bodid var, ad fæda Herranns Hiordu, (enn hana reita sijst), med hollri Dygd hier a Jordu, a Himnum er Kaupid vijst.

Eg er sem aumur Saudur, O JESU, Hyrdir minn! veikur, hrumur, hꝏlf-daudur, hiꝏlpi mier Kraptur þinn, vyrdstu mier villtum greida, Veg þinn, so gꝏngi eg fws, og um̃ sijdir innleida, i eilijst Sauda-Hws.

# 36. Psalmur.

## Um̃ Vodan St. Peturs Vijslarvættis, og Skipan JEsu, ad Petur skuli sier fylgia.

Ton, Guds Son kallar, komid til mijn, etc.

WJÞ Peturs Son Guds sagdi eñ, so hermir oss þad Ritningeñ, sañlega eg þier segie, ꝏdur þig siꝏlfur uppgyrdter, og geckst hvort sem ad lyndti þier, a unga Alldurs Dege.

Eñ þa þu elldist ei so sker, Eftaust þad fyrir

fyrir segi eg þier, wt unntu Arma brelda, aññar þig gyrdir, og þangad, ei sem þu villt, so JEsus kvad, hañ mun þig hrumast leida.

Þetta Simoni sagdi hañ, og somu Ordunn teikna vañ, vijst þo Petur ei villdi, med hverium Deyd, þa Hiervist hañs, hefdi og fallvallt Lijfid Stans, DRottiñ hañ dijrka skylldi.

Petur Attrædur vel þa var, vid hann framkomu Pijslernar, sem JEsus fyrir sagdi, med nidurhengdu Hofdi hann, Hiervistiñ þegar dvijna vañ, Krossfestur Lijf aflagdi.

Gæðlaus i Ungdooms Giæðlijsi, gyrdti eg mig morgu Rænglæti, og vondum Verkum vafdi, og framgieck þrætt þann illa Veg, eins sem þad siælfur villdi eg, og hvers Hollds Gyrndinn krafdi.

Alls þessa vil eg ydrast nu, Yfirboot giora i riettri Trw, og med þijdu Packlæti, minnast alltijd at Mystkun þijn, miñ Gud sem ei i Heliar Pijn, hrattst mier wr Heimsins Kiæti.

O goodi JEsu umgird mig, audmiwklega þess beidi eg þig, Linda þijnum lioomandi, Riettlætis Vellti þitt sie þad, þvi mier Rænglætum vefdu ad, i saaru Synda Standi.

Og leid mig þangad þu sem villt, þitt Raad skal jafnann af mier hyllt, i Hæðska hverskins Nauda, læðttu og DRottinn loksins mig, leidast hiedañ, so

fæi eg þig, diirkad med miinum Dauda.

HErrann Petri þa hafdi tied, hañs Piislar-Vætti, segia ried, til hanns so enn talandi: **Fylg þu mier eptir, ïñti hañ.** Athuge Bod þad Christinn Mann, sierhver i siinu Standi.

Goodum Vegviisir Ohætt er, eptir ad fylgia, hann fœrer, ey neiñ a villtum Vege: JEsu eg einganñ jafnañ fiñ, JEsus er beste Leidtogiñ, a dyñre Rootte sem Dege.

Ordsins Pienarar eiga fyrst, med allre Dygd og Hiartañs Lyst, Fylgia siinum Frelsara, i hreiñri Kienning hveria Tijd, huxandi þar uñ fyrr og siid, Uñvondun eingum spara.

Þeir sem ad Guds Ord heyra hier, af HErrañs Þienurum, jafnann ber, kappkosta, Kieñinguñe, fylgia epter: Þeir filgia þa, Frelsaranum, sem Styrk mun lia, a Leid þo lijast kunne.

J Lijferninu lijka þu, Lijfernis Ferel þijns JEsu, seta Guds Barn skylega: Hoogværd, Trw, Elsku, Hreinlifi, hiartgroona Myskun, Riettviisi, ydkadu alla Vega.

Hlijdni, Þolgiædi, Heilagleik, hia þier laattu ei fara a Reik, liwst stunda Lijtilæti, i ollu þessu utann Fleck, undann þier siaalfur JEsus gieck, i hæsta Himna Sæti.

Athuga Saal mijn einninn hier, And skotiñ lijka skipar þier; fylg þu mier, so hann segir: Þad skalltu varast, þviad hann, þeim ollum sem hann rada kann, i Fordæmingu fleigir.

Ver=

Verolldinn lijka vielar þig, vill ad þu skulir stunda sig, og fylgia Feril sijnum: O mijn Saal! fordast alltijd þad, einum JEsu þig halltu ad, a Vegum øllum þijnum.

J giegnum Sorg og siaalfann Deyd, sannlega er Guds Barna Leid, sem JEsu sinum HErra, eptirfylgia a alla Lund, Elsku hanns rækia hveria Stund, Sorg þeirra seint vill þverra.

Fylgdu þo JEsu, hvert sem hann, hier vill þig leida, Christinn Mann, ef til Lijfs eda Dauda: Hann er Vegurinn vijsastur, villist sa honum fra hverfur, a Braut eilijfra Nauda.

Hvert sem þu geingur greidann Stig, eda giørist Færdinn torvelldlig, a þijnum Eymda Vegi, æ medann JEsus er þier hia, ecki kann þig ad skada þa, hanns Fylgd er fallvollt eigi.

Enn þo ad leidi ecki mig, a Roosunum um Lijfsins Stig, Frelsarans Forsioon blijda, helldur um þraungvann Þyrne-Veg, þad allt skal giarnann lijda eg, honum fylgia og hlijda.

Og ef honum so sijnast maa, sie eg i Fylgd til Golgatha, þad skal eg giarnann giera, og Kroß hanns taka uppa mig, allt so rekia hanns Blood-Stig, sem vill hann laata vera.

Einginn Hørmung, og einginn Pijn, æ medann varir Hiervist mijn, eigi Lijf, Daudinn eigi, skal ockar Hiortu skiliaad, skiærasti JEsu, veit mier þad, og leid mig a Lijfsins Vegi.

# 38. Psalmur.

## Um̃ Forvitni St. Peturs.

Ton, Naatturañ oll og Edli Mañs, etc.

Þegar Petre (sem aadur er mügleted,) Jesus sagde: Fylg þu mier eptir; og hañ sier, ad þessu sama Bragdi, Lærisvein bliñ, sem Lausnariñ, kiwfur heitt elska ried; hver ed og laa, hañs Briooski aa, helg Kv- olldmaaltijd þa skiedi.

Hañ sein og spyrka HErrañ vañ, hver er sáa þignum svijkia? Liooft sem Petur nu lijtur hañ, laangt ecki burtu vijkia: Hv- ad skal nu þa, þessi sem h!aa, þier geingur? Petur segir, til JEsum þar, sem þvi gaf Svar, og þañiñ Ord sijn hneigir:

Ef ad eg vil, han eiñ fyrir sig, allt til þess eg kiem, blijfi, hvad kiemur, Petur, þad vid þig? Þitt Hiarta sig ei ysi; fylg þu mier framt, fraa eptir samt, saa st um Johannem eigi. Þolgiædi med, þitt styrktu Gi- ed, þijnum aa Lijssins Vegi.

Johannem sælann segia maa, sem ad aa JEsu Briooski, um̃ Kvelld-Verds-Tijmann einn þar laa, eingvum so mætti Þiooki: HErrañ vor hann, heitt elska vañ, honum unti Sootl-Daudum, Haa-Oll-

dr Nd-

drudum, i Heiminum, Holldsins leysast fraa Naudum.

Þig hefur, Saal mijn, lijka lagt, Lausnarinn JEsu blijdi, aa sitt Briooft, þad med Sanni sagt, sarstu i morgu Strijdi, þa Huggun hanns, hafdi ei Stans, Hiarta þijnu ad svala, sem Hiartad sitt, vid Hiartad þitt, hann laadi med Ast fala.

J synni kieru Kvollds-Maaltijd, kiemur miñ Jesus goodi, til mijn, hvar Ast hanns einka blijd, ollum mig sviptir Moodi, þar aa sitt Briooft, mig leggur liooft, Lijfgiafari minn sæti, þadann Saal mijn, sijgur til sijn, Svolun, Naad og Riettlæti.

Petur forvitinn fregna vann, Frelsara vorn hiñ blijda, uñ Johannem, hvert ei sem hann, ætti Krossfesting lijda: Þessi hvad skal? Þad var hanns Tal, þeinkia (maa skie) so riedi, ad sig mest einn, HErrann vor hreinn, af heitu elskadi Giedi.

Enn DRottinn segdi einum sier, ad hann kroßfestast skylldi, af þvi uñ Johanns Utfarer, ofhnijsinn Petur villdi, Forvitnast bratt, a hvada Hatt, hann mundi Lijf sitt enda: Soddann Freisting, sem miog er krijng, Sañ-Gudhrædda nam henda.

Eingann Heilagann utann Brest, i Heiminum maa finna, ei hefur neckur Syndlaus sieft, sijst kañ þad Bol ad linna: Guds Astviner, sem Ord hañs tier, aunlega falld hafa, Hollds Veikleikenn, vid hvern Christenn, hefur so breitt aan Vafa.

Hafi þeir Stoolpar hætt skolfid, hvers skal þa vænta meiga, Riwkandi Hor og Reyr-Straaed,

med rasandi Krapta deiga ; Vier vora þvi, Otta Guds i, eigum Sæluhiælp verka, osß rijma fraa, sem orka maa, Athugalensid sterka.

Forvitni Peturs Frelsarinn, og Fijsn hier strassa nadi; varastu Madur sierhvert Sinn, siaalfs Guds þijns eptir Raadi, grenslast, þvi þier, oshætt þad er: Oransakandi Vegir, eru vijst hanns, Hugskoti Manns, hanns Doomar furdanlegir.

Lioosinu ofnær ef þu fer, eilijfrar Drottins Speki, ad þig brennir, ei Ohætt er, og hann þig burtu hreki: Þu ert Leyrinn, þad vid Smid sinn, þratta maa ei, nie segi: þvi giordir þu, mig þanninn nu? Þier kann slijkt leifast eigi.

Hvad sem Gud lætur hlotnast þier, hygg ad þvi Saal mijn blijda, siaalfur allra best sier fyrer, so sem Barn skalltu hlijda, mis-uñ ei þeim, sem hier i Heim, hann giefur Eptirlæti, laat þier hanns Raad, nægiast og Naad, naum þo þier veitist Kiæti.

Þeim sagra Josephs Kirtli kann, klædast hver Madur eigi, eñ allir Froomir eins og hann, aa þeim sijdarsta Degi, Guds Elsku naa, gefst Vegsemd þa, Gud einn þar Makt til hefur, hier vid siñ Lyd, aa hverri Tijd, hondla, sem Villd hanns krefur.

Medal Brædraña Ord þad eñ, utgleck, og hver eiñ segir: Þessi Lærsveiñ skiptur señ, Soott og Pijn, deyr alldreigi, og JEsus vañ, eckí uñ hañ, Ordum þessum ad tala: Lærisveinar, þo giordi þar, þvi-

lijkt

lijkt med sier, ad hiala

O! hvad opt giorir Ordinn hiin, Endurlausnarinn besti, afbaka eptir Illsku sijn, Omilldra Flockur vesti, Villu-Lærdoom, med vondum Room, vekia og þrætt wtbreida, einfallda Þiood, a Heliar Slood, afvega hanninn leida.

Tilkomu Dagur DRottins er, Dauda-Tijd Riett-Christenna, i JEsu deya Utvallder, allar Sorgir þa linna, vier sofnum sætt, Saaliñ er kiætt, i sialfs hanns Fadmi bliidum, i giegnum Deyd, þa liggur Leid, til Lijfs frá Heims Astrijdum.

## 38. Psalmur.

Uñ Opinberan Christi a Fiallinu i Galilæa, og hanns Skickan, ad Postularnir wtfæri uñ allañ Heimiñ.

Ton, Gud vor Fadir vier þockum þier, etc.

MErisveinarnir Lausnarans, lioost sem ad Skriftiñ greinir, eptir Bodi og Ordum hañs, Ellefu Lyndis hreinir, i Galilæam a eitt Fiall, wtgengu. So ei snerti Fall, þar voru þo ei einir.

Fiñ Hundrud Brædra fylgdu med, Frelsarann strax tilbadu, er þeir hofdu hann allir sied, af Fognud gledjast naadu, enn nockrir giordu efa þad, ei hafdi slijkt þo laangann Stad, ad JEsu grandt þo gadu.

Uppriſinn laata ſig ad ſiaa, Sonur Guds loſa riedi, Giædſkufwo i Galilæa, giorla nu þetta ſkiedi: Alldreige bregdaſt Heitinn hanns, hann er Drottinn Gud Sañleikans, hier af æ giefſt mier Gledi.

Haalærdra Manna Meining er, mundi Fiallid heilaga, aa hveriu birtiſt HErrann hier, hvar til viſs Rok þeir draga, aa þvi Forklaaran ſijndi ſijn, Sonur Guds fyrr enn leid hier Pijn, og allañ vorn bætti Baga.

Borg ſem ad Fialli bygd er aa, bleſsud Guds Chriſtni heitir, þar ſær þu JEſum Saal mijn ſiaa, ſem alla Gledi veitir, hann þig hreſsir, hañ þig lijfgar, Holld hañs og Blood þig nærir þar, þa Synda Þwnginn þreytir.

Af þeſsu Fialli eg mun faa, eptir Lijfid ad fara, aa Zions Fiall uppſtijga þa, og minn ſæta Lauſnara, med Utvolldum þar ollum ſiaa, i Borg Guds ſiaalfum Drottni hiaa, og ſkiærum Engla Skara.

Af Sina Fialli Iſrael, wtgiefa Drottinn nadi, Logmaalid, ſem ad Hrygd og Hel, hverium ſem einum ſpaadi, af þvi þad kunni einginn Mann, uppfylla, nie þeſs flya Bañ, Ok þeſs ſo alla þiaadi.

**Af Thabor Fialli Frelſarīñ, Flock helgra Poſtulaña, wtſenda giordi uñ Heimiñ, Evangelium ſaña, ad boda og kieña allri Plood, i ſem Logmaalſins Bañi ſtood, og ſegia Kvittun Syndaña.**

**Allt Valld er gefid einum mier, End=**

urs

urlausnarinn tiædi, a Himnum, sem ad alldrei hver, einninn a Jardar Laadi. Ad soddann riett athugudu, eptir Manndoomsins Naatturu, þess Magt JEsus þaadi.

Af þvi JEsu gafst eilijst Walld, Astkiæra Broodur mijnum, syrir mig allt hann greidir Giald, Gudi og Fodur sijnum, hann mig Woladann framfærer, fyrst hann er so nær-skylldur mier, og sviptir øllum Pijnum.

Eg er riett-dæmdur uppa hann, Ætt ockar kann eg segia, Holld af hanns Holldi: Sw med Sann, sonn Skylldsemi mun hneigia, Hiartad hanns, til ad hiaalpa mier, hanns Walld lætur ei slijta af sier, Ønd mijn, þa eg skal deya.

Af JEsu Walldi wtsendir, urdu hanns Lærisveinar, styrktir, gladdir og Hughraustir, hvørs vegna einginn kveinar, swsir hanns Skipun fylgdu umm Heim, fannst ei Tregdan hiaa nockrum þeim, þo væri ei Brautir beinar.

Ad Kienna og Skijra alla Þiood, Endurlausnarinn blijdur, umm þa vijdu Verralldar Slood, af Walldi og Myskun bijdur, helgum Postulum Heims umm Rann, hier af er liooseast vilie hann, ad tapist einginn Lijdur.

J minni Skijrn eg ordinn er, Oska-Barn Guds lifanda, Arfur Himneskur hlotnast mier, er hugg-ar nu betst minn Anda, Gledi, Fridur, Farsælld og Dijrd, sem fæst ei af nockrum hier wtskijrd. Ersd sw skal Eilijf standa.

Eg ein med ydur eñ so tier, Endurlausnarinñ sæti, allt til Veralldar Enda hier. O þa Fagnadar Kiæti! Sem hier nu odlast Saalinn mijn, sæll JEsu minn, af Nalægd þijn: O Himneskt Eptirlæti!

Eg vil Lofordid þetta þitt, þijdasti JEsu, vesia, med Trwar Hond um Hiartad mitt, Hormung so alla kefia. Þu ert minn Styrkur, Hiealp og Hlijf, Huggun, Frelsi: J Eilijft Lijf, hvedann muntu mig hefia.

O minn sæti Emanuel! O JEsu Gud og Madur! Vertu hia mier, so vegnar vel, eg verd þa fyrgiandi gladur, hia mier vertu i hverri Neyd, hia mier vertu i Lijfi og Deyd, HErrann minn hatt-lofadur.

# 39. Psalmur.

## Um Undirbwning JEsu Christi til hañs Uppstigningar.

Ton, Hallt oss Gud vid þitt hreina Ord, etc.

Eptir sijna Upprisu hier, oss sem Riktninginñ bad segier, i Fiorutiju Daga dijr, dvaldi vor JEsus Milldi-skijr.

A þeim Dogum vor Drottiñ ried, Damsemdum og Kieñingum med, sijnum Postulum safna i Eitt. Sem vid Hiord fær einn Hyrdir breitt.

Vors

Vors sæta JEsu Sveinarner, Sorgar Stunder Fiorutijger, eptir hann hofdu Andadann, i Grofinni þa liggia vann.

J Fiorutijger Daga dijr, Drottinn vor JEsus Giædsku-hijr, aptur nam gledia alla þaa, a hvorium tijdt þeir fengu hann siaa.

Eptir Sorgina gefur Gud, Gledi, Hugsvolun og Fognud, eptir vort Stundlegt Erfidi, Eilijfa Hvijlld og Roosemi.

Ur Jerusalem vtleiddi, allra sijdarst vor Lausnari, Lærisveina, sem Letrið tiaa, liwfur allt til Bethania.

Bethania sem auglioost er, Angistar Heim Kyñi þijder, þar nærri laa nu Lausnarans, Leid, er hañ stie til Himna Ranns.

Mijn Saal, þijn alltijd liggur Leid, Lijfsins medann þu hleipur Skeid, um̃ Sorgar Vegu allmarga, upp i Dijrdar Sal Himnanna.

A Oliu-Fialllld Elskufvws, uppstijgur Drottinn vor JEsus, af hvoriu hañ til Himna fer. Huggun betstu þad gefur mier.

A þessu Fialli hafdi hañ, halldid sterkasta Bardagann, vid Daudann fyrr og Diofuls Magt, og daa samlega þa undirlagt.

Oss hvad hann feck þa afrekad, i þessum nu hañ byrtir Stad, sem er Himna-For Heimi fraa, hverium̃ er Nafn hanns trwa aa.

A Fialli þessu Frelsarinn, fyrr hafdi Tijdum

Natt-

Natt-Stad sinn, og sinum Bænum vthellt þar, adur enn leid hann Piislernar.

Hefur Sannlega HErrann þa, Himna-Før sijna minnst þar a, og þvi swari uppbyriad, allar Piislir i þessum Stad.

Af þvi Diirdlegur upp nu stie, Endurlausnariñ blessadi, med Sigur-Hroosan i Himna Diird, hver alldrei verda kann vtskijrd.

Andleg Himna-For Eflaust er, ad bidia Gud a Jordu hier, þvi þa er Hiartad Himnum a, HErranum JEsu sialfum hia.

Sa þad giorir, viist hefur hann, Himnariiki a allann Sann, i siinu Hiarta, hvar ed fws, Herbergi tekur sier JEsus.

Bæninn hefur i Himininn, Hiartad, sem fadmar Drottinn sinn, i hanns Skaut sig innleggur þar, odlast so Traust hanns Miskunar.

**Forr eñ Herrañ til Himna foor, hañs nam eñ byrtast Elskañ stoor, vid Postulana, hverja hañ, med Hiartans Astsemd kvedia vañ.**

**Med lyptum Høndum Himnum ad; Herrañ vor JEsus giordi þad, og blessade þa alla señ, eilijfur Diirdar Kongureñ.**

Af JEsu Hondum Blessan berst, bijtest og iafnann vtdeilest, øllum Trwudum: Einn þeim hañ, Abrahams Blessan veita kann.

Af Blessudum Særum Handa hanns, hiingad

ad Jord til Syndugs Mañs, þeim Lijffins Bruñum framflioota, fegurstu Straumar Blessana.

J Lijfi og Dauda eru hier, O JEsu! Pijnar Hendur mier, Blessan, Huggun og Hiælpræde, ad Himnum þær eg gladur sie.

J Lijfi og Dauda eg bid þig, i Þijnum Hondum geymdu mig, þa eg dey Herra Hondinn þijn, i Himna-Vist taki Saalu mijn.

# 40. Psalmur.

## Uñ sialfa Uppstigninguna, og Sess JEsu, til Guds Hægri Handar.

Med Himna Lag.

EPtir þad JEsus hafdi hradt, Heilaga Lærisveina kvadt, vid þa skylldi, og var þad Siñ, med Vegsemd hærstu uppnumiñ.

Þeim Asiaaendum eitt Sky hañ, frá Augum þeirra taka vañ, i Himiniñ so upp þa foor, Endurlausnariñ JEsus vor.

Til Hægri Handar Himnum á, hærsta Guds situr. Vegsemd þa, af Adam komiñ eingiñ Mann, adur nie sijdañ hlioota vañ.

Athuga, Saal mijn, aattu hier, Endurlausnariñ stiginn er, upp til Himnanna af Jordu, eptir Manndooms sins Naatturu.

Eptir Guddooms sins Edli hann, Upphefd neina

ei hliodta vann, hannn var Gud hærstur Himnum a, Hefd kunni einga meiri ad faa.

O! Hvad gledur mig aumann þad, ad i Himneskann Dyrdar-Stad, Holld mitt i Christo hefid er, hvers eg mma lijka vænta mier.

Hofud mitt JEsus, HErrann minn, i Himna Dijrd er uppstygiinn, mier hanns Lim einninn hlotnast a, Hofdi mijnu þar vera hiaa.

Upp ad Himnenum i Skye, Auglioslega vor Drottinn stie, Valld og Dijrd JEsu vottast hier, Vagn hanns til Himins Skyid er.

Eg þegar lypti Augum mijn, i Skyinn, Drottinn minn, til þijn, iafnann giori eg ad þeynkia þa, þig mun eg gladur lijta faa.

Aptur koma a Effsta Dag, i Skyunum med Dijrdar-Hag, hafandi Virding Wolduga, og Veglega Samfylgd Englanna.

Ad eg verdi þa vidbwinn, veiti mier helgur Andi þinn, og med þier sialfum Sigri ad naa, sætasti JEsu, Himnum a.

Nidur af Himnum hijngad kom, HErrann JEsus i Faatækdoom, og i Þioons Mynd hier umgeckst hann, a Jordu medann dvelia vann.

Enn til Himins hann uppstijgur, aptur sem HErra Dijrdlegur. Soddann Vijti vid Born sijn hier, Blessadur Drottinn enn giorer.

Af Þioonum gioir Herra hann, af Hrygdarfullum, Gladværann, af Kross-þiokudum Eymda frij, Ast hanns og Naad so skickar þvi.

J skapadann Himin ecki er, a hvorium lioomar Stiarna Her, Endurlausnarinn uppstijginn, oss sem hoost kienner Ritninginn.

J Eilijfann Himin, Eilijst Hws, inngeck Frelsarinn vor JEsus, i þa Tialldbwd, hver eigi er, af Hondum bygd, sem Skriftinn tier.

Þessi Himin er Hefd og Dijrd, hver alldrei verdur noog wtskijrd, Utvalldra Stadur Eilijfur, Eilijf Gledi og Fognudur.

Adam lokad aptur fyrst, aumlega þa hann syndgadist, Himninum fyrir ollum oss: Eilijft so mistum Dijrdar Hnoss.

Sa annar Adam af Himne, i sinni Dijrd nær þangad stie, upplauk Himnenum ollum oss: Eilijft so hreppum Dijrdar-Hnoss

J þa Sælunnar Sælu Vist, senn leid mig Herra JEsu Christ, i Voninni er eg hiaa þier, a Himnum, medann þad ei sker.

Þar lifa allir Utvalldir, Englum Heilogum samlijkir, i Dyrdinni sem alldrei dvijn, einginn snertir þa Hryggd nie Pijn.

Ei hefur nockurt Auga sied, ei nockurs Hiarta fullskiled, hvad stoora Gledi Himnum a, hiaa Gudi Utvalldir þar faa.

Enn skallt þu Saal mijn athuga, um JEsum Christ þinn Frelsara, ad til Guds hægri Handar hann, a Himnum situr, þo sem Mann.

Gud er einn Andi og til Sanns, ei hefur Holld nie Limi Manns, Almættis Stioorn hanns Eilijf

er, ædsta Guds Hond, sem Skriftinn tier.

J þeirri Stioorn ad Eilijfu, eptir Mannlegre Natturu, rædur JEsus, hvörs eingum ann, allstadar nærverandi Mann.

J Himins og Jardar hverium Stad, og Helviiti eins giorir þad, eptir Manndoomsins Megt, sem er, meddeild honum; þar ei af ber.

Gled þig nu, Saal mijn, gled þig hier, Guds Sonur sem þinn Broodir er, a Himni og Jordu hann stioornar, hann er og med þier allstadar.

Oteliande Guds Engla Her, Efalaust hefur fylgst med þier, þegar þig hoofst i Himininn, med hærstri Vegsemd, JEsu minn.

Nær eg helld mijna Himna-Ferd, hiedann þa burtkalladur verd, ædstur mijns Jesu Engla-Her, ei mun þa verda laangt fraa mier.

Mijna Ond þeir medtaka þa, mædst sem ad hefur Jordu a, i Abrahams Skaut þeir bera blijdt, hvar bwid er Sælu Plaatzid frijdt.

O Sæti JEsu! Innleid mig, um þad af Hiarta beidi eg þig, þa endast Stundleg Eymdiin mijn, i Evarandi Dijrd til þijn.

Heidur, Speki, Valld, Vegsemd, Dijrd, Vitska, Styrkur og Lofgiord skijrd, sie þier O! JESU CHRJSTE klaar,
Kongur Dijrdar um Eilijf
Ar, Amen.



Elsk

# EJNN PSALMUR

## Ut af

# Upprisu Historiunni;

## Ordtur af

## Saal. Sr. Hallgrijme Peturssyne.

Ton, Giædskurijkasti Græðari minn.

Hiartad fagnar og Hugur minn, HErrañ Jesus er upprisiñ, Kvool þo aa Krossi ætti, aarla Sunnudags er þad skied, aadur eñ Sooliñ liisa ried, af Guds Dijrdar Almætti, þydur, frijdur Engill kemur, Kraptinn fremur, klaart eg greini, af Grosinni velltir þeim stoora Steini.

Jardskiaalfti mestur skiedi þar, skiærasta Liooma Engill bar, Vardmenn þa soddañ saau, Otta myklum yfir þa sloo, Afl og Styrkleika fraa þeim droo, lijka sem daudir laau, þegar, Vegar, Lioosid skapta, Lijfsins Krapta loksins feingu, heim i Borgina hrygg ver geingu.

Hofud-Prestana hittu senn, hermdu oll þessi Tijdindenn, hinir þeim hietu Gaafum. Segid, ad Lærisveinarner, sooktu Lijkamann burt med sier, þegar vier þreittir svaafum; hradir, gladir, Giallbid þiggia, þar ad hyggia, sijdann sogdu, lijka sem Judar þeim Raadinn logdu.

Adur enn Dagurinn upprann klaar, wtgeingu af Stadnum Kvinnur þriaar, Maria Magdalena,

Moodir Jacobs hins minna var, med þeim lijka Salome þar, þær hugdust Christo þiena, hryggvar, dyggvar, Lausnarans villdu, ad liwsri Skylldu, Lijkid smyria, hvor ried adra þa hlioott ad spyria:

Hver mun burt vellta hördum Stein? Hindrar sa oss œ marga Grein: þegar sein litu þanngad, opinn stood Grof, enn Engill var, alhvijtu klædd-ur Lijni þar, Hrædsla ried Hiartad fanga, hlioodar, moodar, hryggvar Kvinnur, sagdi spiñur: syrgid eigi, uppriśinn JEsum eg ydur segi.

Kvinnurnar gladar geingu heim, Grædarinn JEsus mætti þeim, segiandi: Verid sælar, þær siellu sijdann fram til Sanns, œ Fœtur kystu Lausnarans, hañ ried hijrlega ad mæla: Eg bid, ad þid, mijnum blijdum, Brædrum þijdum, brætt þad innid: i Galilæa þier fyrst mig finnid.

Magdalena œ medañ ser, miog flioott þanngad sem Petur er, og Johañes med honum, sagdi: Lijkamañ sælastañ, sica hvergi eg nie fiña kañ, burt tekiñ væri hañ vonum, bædir, þioadir, undrast hetta, er þad frietta, og œn Tafar, wt þanngad geingu nu oll til Grafar.

Fyrstur Johañes frañkom þar, sornam ad Grefiñ opið var, Petur þa greidt iñgeingur, sa þar lögd Lijnklæd-iñ mijwk, lijka og JEsu Sveita Dwk, Forundran af þvi seingu, allskioott, og skioott, aptur snwa, og þvi trwa ollu ad soñu, burt muni Lijkid borid af Möñum.

MEvandi Maria wti stood, iñ i Grofina horfdi Fliood, Englum tveim gaf ad Giætur, vard hún nu hrædd, og vid-leit þa, Vaktaran Gardsins hugdist sia, hañ spyr strax: hvad hun grætur? Huñ kvad: hellst þad, miñ HErra þijd-ur,

ur, Hiartans blijdur, hier finst eigi, Efnid Sorgar eg þad segi.

Hafir þu bor'd hañ burt med þier, bid eg ad HErra seg-ir mier, so ad hañ þangad sæki, Madurinn svarar: Maria! Meistari sagdi hun aptur þa, ei leifdi oß sier tæki, vll Hrygd og Stygd, snijst i Gledi, skiott þad skiedi, er Christum kiendi: þeim til Postula hana sendi.

Hun kom strax og þeim kungiørde, Christur af Dauda risiñ sie, Atburdi alla sagdi, hinar Konurnar herindu med, hefdu þær lijka Jesum sied, Lijfs og i lifsu Bragdi. Þetta, rietta, Villu hielldu, Hug sin hrelldu, HErrans Sveinar, Sioon Hversingar þad søgdu einar.

Til Emaus geingu einir tveir, um HErrans Pijnu tala þeir, þad skiedi a þessum Degi, eñ so til bar, sem segi eg fra, sialfur JEsus nalægdist þa, þo ad hañ þecktu eigi. Hañ spyr, Hug-kyr, hvada Hialed, Hrygdar Taled, hafed Brædur? Cleophas ansar med klockri Rædu:

Ertu eñ so Okiendur Mañ, i Jerusalem, ad Giørning þañ, sem er fyrir skømmu skiedur, veitstu ecki? Eñ hañ spyr ad, honum Cleophas sagdi þad, JEsus sem oß var medur, hædstur, ædstur, af Spadooms Ordum, og Giædsku Giørdum, fyrir Gudi og Mønum, a Krossi deyddur, þad sialfir søñum.

Eñ nu i Morgun arla viist, adur eñ fieck af Degi lijst, Kvinnar fra oß utgeingu, lifandi søgdust lijta hañ, lijklegt þad eingum virdast kañ, Felmtur þvi aller feingu, Heymska, Gleymska, kvad þa bæda, Kongur Dauda, kiendi sijdañ, Christur so hefdi hlotid ad lijda.

Alla Ritning utleggia ried, opnadi þeirra Hugskot med, Skriftina gløggt so skilia, Kauptunid allir nalgast nu, nær þvi endud var Leidiñ sv, gaunga lietst leingra vilia, beiddu, neyddu, Christ ad bijda, kvada lijda a Kvølldid nærsta, iñ med þeim geingur Milldiñ hærsta.

Settist til Bords og Braudid þar, blessadi, sem hanns Sidur var, og sijdañ ad þeim rietti, badir i señ hañ þeck-

tu

tu þa, þeirra Sioonum hvarf burtu fraa, Harmi wr Huga liettu, hradir, gladir, Poſtulum hinum, HErrans Vinum, hier fraa ſøgdu, eingañ Trwnad þeir aa þad løgdu.

A ſømu Stundu þad ſo til bar, ſialfur JEſus var komiñ þar; og midt i Midiu ſtendur, þeim Oſkar Fridar þeſſu næſt, þa var Dyrunum apturlæſt, ſiaa liet aa ſijnar Hendur: Eñ þeir, þvi meir, urdu ſegnir, Ottaſlegnir, og þvi trwa, Graat riedi øllum i Gledi ſnwa.

Ecki var Thomas þa med þeim, eñ þegar ſeirna hañ kom heim, þeir ſøgdu allt hid ſaña, alldrei trwi eg hañ anſa ried, utañ ad Nagla Føriñ ſied, ſaai med Fijngri kaña, lidu, bidu, aatta Dagar, Dyrdar hagar, DRottiñ ſætur, ad luktum Dyrum kom milldur mætur.

Hiaa þeim ſtood HErrañ hijr i Mid, hier nærſt Thomam ſo ræddi vid, og vill hañ verdi gladur, i Nagla Føriñ laat Fingur þiñ, ſliott legg mier Hønd i Sijdu iñ, verþ ecki Vantrwadur: DRottiñ, Gud miñ, ſagdi dyggur, Trwar tryggur, Tvijburiñ frijdur: aptur JEſus þa anſar blijdur:

Sañlega Thoma trwdir þu, Tilſynd miſn þeſſu oll nu, og eg eñ framar ſegi: ſæll er ſaa hver mig ſier ei hier, ſamt þo af Hiarta treyſtir mier, Huggun ſo hlioota megi. Fleiri, meiri, Jardteikn hrein, fyrir ſijnum Sveinum, ſijdar giørdi, øll þo ad greind hier ecki verdi.

Vid Genezareth Vatnid braatt, voru þeir þa ad Fiſkidraatt, eñ ſig opiñberadi, Petur adſpurdur þriſvar þar, þvi jaatadi, ſem vonlegt var, ad hañ JEſum elſkadi, bijdur, þijdur, Lijfſins Braudi, ſijna Saudi, Simon fæddi, ñu hañs Dauda og Utfør ræddi.

Fiørutiju Daga DRottiñ ried, dveliaſt hier Læriſveinum med, eptir Uppriſu dijra, til Himna upp ſijdañ hiedañ ſtie, hiaa Hønd Fødurs Almaattugre, ſitur vor Hiaalpiñ hijra. Amen, Amen, allar Tijder, loſs Lijder Lauſnarañ gooda, hønum ſkal jafnañ Heidurinn bioода.

Þeir

# Registur
## yfir þessa Upprisu Psalma.

A

AD læstri Hurd komi Lausnarinn, 65.
Aldur er greint ad giordu tvelr, 52.
Angradar Kvinnur Anna ad Sinn, 31.
Arla sem eg nam greina, 8.
Atta Dogum, sem Ord Guds tiar, 86.

B

Blessadur Engill, eins sem er, 34.

E

Eg vil, minn JEsu, annad Sinn, 4.
Eptir sijna Upprisu hier, 110.
Eptir þad JEsus hafdi hradt, 113.

F

Fraa Borginni med Hrigdar Hag, 42.

G

Gudspiollinn segia; Herrann hijr, 44.

H

Heidnir Strijds-Menn, sem Historian, 40.
Herrann JEsus, ad hugga frvs, 68.
Herrann vor JEsus hugga ried, 70.

J

J Upprisu JEsu eg vijst finn, 13.

K

Kvinnurnar gladar gengu heim, 37.
Kvinnurnar grætnar gengu, 20.
Kvinnurnar komu bradt. 18.

L

Lausnarans Lærisveinar, litu. 48.
Lærisveinarnir Lausnarans, liost 107.
Lærisveinarnir, Lausnarinn med, 55.
Lærisveinar, sem ædur er, 59.
Lærisveinar, sem sagt er fraa, 63.

M

Maria ecki finna feck, 62.
Maria Magdalena, miin Ord 23.
Med Fridarins Heilsan Frelsarinn, 81.

O

Ok Fridarins i annad Sinn, 78.

P

Postular svinnir svara, 93.
Postular Herranns hijrir, 97.

T

Til Peturs Son Guds sagdi enn, 100.

V U

Vid Grofina, sem greindt var fyrr, 29.
Vid Tiberias Sioo-Sijdu, 91.
Upprijs, mijn Sæl, þvi upprisinn, 1.
Utgengnar af Borginni, 10.

Þ

Þa JEsus uppreis, ofannstie, 15.
Þegar JEsus Fridinn færdi, 73.
Þegar Herrann, sem hefi eg tied, 75.
Þegar Herrann vor Himnum fraa, 84.
Þegar Lausnarinn Lijda, 88.
Þegar Petri, sem ædur er, 104.

